# Fáord
# Minníng
þeirrar
miklu Merkis-Konu,
Stiptprófasts-innu
# Þuridar Asmundsdóttur,
lesin
vid Hennar Jardarför
ad Garda Kyrkju á Alptanesi,
þann 14da Júnii 1817,
af

Arna Helgasyni,
Domkyrkjupresti til Reykjavíkur.


---


Beitistødum, 1817.
Prentud af Faktóri og Bókþrykkjara
G. J. Schagfjord.

Það er gamall og gódur sidur, ad minnast á gøfugra manna æfi, vid þeirra útfør; ecki til ad hýa upp sár þeirra, er ad þeim standa, meina enn þénanlegt er, til ad flýta lækníngunni, heldur þeim Framlidna til sóma, og ødrum til þénanlegrar umþenkíngar.

Markverdur atburdur er fráfall sérhvørrar manneskju, og gjørir víst sterka verkun á alla, sem nockud hugsa alvarlegt; það sannadist, ef vér sjaldan fréttum til þvílíkra atburda, hvert oß yrdi ecki bilt vid; vaninn gjørir það ad verkum, ad þeßháttar fær nú ecki svo mikid á menn, nema þeim sé nærri høggvid, eda ødrum, í hvørra sorg þeir taka hlutdeild.

En svo tilhlýdilegt sem það er, ad heidra minníngu framlidinna Merkis-manna med hátídlegum samkomum, svo gott væri, ad þetta gæti ætíd skéd, eins og samþýdur best þeim framlidna, og þeim, er hann þreya; eins ættu og þau ord ad vera løgud, sem talast vid því-

lík tækifæri, svipud bædi þeim, er þau mida til, og líka hinum, er á heyra; en — þetta er hægra ad segja enn gjøra, opt og tídum.

Skyldan býdur mér nú ad tala yfir Líki framlidinnar Merkis-konu, sem daudinn nýlega sleit úr ørmum Hennar elskulega og alldrada Ektamanns. Væri þad minni vandi ad tala vidhafnarlaust, ad setja til sýn alla mælskunnar prýdi, heldur enn ad færa sér í nyt hennar lidsemd; svo ætti þetta ad vera, jafnvel mér, nærsta audveldt; en allir vita, ad þetta sýnist, en er ecki hinu audveldara; þó svo sé, hygg eg þad best eiga vid útfør þeirrar manneskju, er eg, med mesta sanni, þykist géta um sagt: ad heldur hafi viljad vera góð enn sýnast góð, sem framleiddi æfina med einlægni, eptir stadføstum lifsreglum skynsamlegrar gudrækni. Eg ætla, ad sú sama tilgjerdarlausa einfeldni, einlægni og sannleiksélska, sem prýddi allt Hennar líf, egi og best vid Hennar útfør. Þad sama mun og þeim kjærast, sem ad Henni standa og á heyra.

Veri

Veri þad þá mín regla, einfaldlega og sem eg veit sannast, ad lýsa þeirri Framlidnu, Henni til sóma, og þeim, sem vilja, til eptirbreytni. Eg gét þá fyrst um þá merkilegustu Atburdi af Æfi Hennar:

---

Hún er fædd í þennañ heim, þann 6ta Augústi 1743, á Breidabólsstad á Skógarströnd. Giptist, þann 20ta Októbr. 1774, Sýslumanni í Borgarfjardar Sýslu, Jóni Eggertssyni, og átti med honum 4 Börn; 2 þeirra dóu úng, á undan Fodurnum, sem sáladist 1784. Annar Hennar þá lifandi Sona, Jens ad nafni, andadist vid Kaupmannahafnar Háskola, árid 1810. Hinn, ad nafni Jón, Lector Theologiæ vid Bessastada Látínuskóla, stendur nú yfir Líki heittelskadrar Módur. Í annad sinn giptist vor Framlidna Stiptprófasti Markúsi Magnússyni, árid 1787, þann 14da Júni, og

sáladist hann 4da í þessum sama mán-
udi, ecki fullra 74ra ára ad alldri.

---

Lífskjør Hennar vóru lík margra annara, er sælir kallast í þessu lífi, sambland af sorg og gledi. Hún naut virdíngar og elsku af øllum, er Hana rétt þecktu, og einkum af Ektamønn-um og Børnum — Hún átti þad og skilid — Forsjónin blessadi Hana med audlegd — þess var Hún og líka makleg — en — Hún reyndi Hana og med Ástvina missir og Heilsuveiki, er, ad líkindum, ágérdist med alldri. Lengi þjádi Hana Iktsýki, Heimakoma og Brjóst-veiki, sem héldu Henni á milli, svo missirum skipti, vid rúmid. Næstlidinn vetur þjádist Hún í lengsta lagi af áminnstum sjúkdómum, svo Hún var rúmføst hardnær allann vetur-inn; en þegar vetri halladi, tók Hún, vonum fljótar, ad hressast, og sýndist sem Hún, med upprennandi vori, mundi ýngjast upp aptur — Hún ýngdist og upp, en ecki fyrir þenna heim — Daudinn flutti Hana til lífsins, til þess sannkallada lífs, eptir fárra daga hæga veiki;

tak

tak undir Herdum, og verkur í bádum fótum, lagdu saman og á eitt ad gjera endá á Hennar heidursverda og dygduga lífi hér á jördu. Hvílík Hún var, þad vitum vér allir, því Hún lifdi í þessu plátsi 30 seinustu ár Sinnar æfi; skyldt er samt ad gêta þess — opt ber þad vid, ad hvorki fær dygd né dugnadur maklegann heidur, medan uppistendur sá, er átti; þad má þó ecki minna vera, enn hann veitist þeim, sem til hans unnu, eptir þeirra skapadægur.

Engum mun þykja ýkjur, þótt eg segi: ad vor Framlidna hafi verid, í Sínu standi, afbragds dugleg, og í Sínu dagfari einhver hin fullkomnasta manneskja. Allar sálargáfur hafdi Hún í gódu lagi, og greind Hennar, sem er sú affarabesta námsgáfa, var framúrskarandi; því gat Hún svo morgum til lids komid med Sínum heilrædum. Bædi gipt og ógipt, sýndi Hún mikinn dugnad í Hússtjórninni. Framsýni Hennar, reglusemi og stjórnsemi, vár hvert odru fullkomnara. Heyrt hefir eg til þess tekid — mér leyfist ad gêta þess — hvad sum þau hjú, er Hún hélt í Eckjustands-

 inu

inn og sídan, hafi Henni dyggilega þjónad; er vottar, bædi Hennar greind ad velja Sér góð hjú, og líka lag Hennar ad gjera þau Sér holl. Ecki hefir heldur verid þagad um þad, hvørnig vid þeßi sömu var breytt í Hennar húsi, eptir ad kursamenn gjørdust — Vægdarsemi Hennar vid ennur, er midur breyttu, og henni samfara umvendunarsemi, er ecki midur hrósverd — Vyrding sú og elska, er umgengni Hennar og allt dagfar innkom hjá hjúum Hennar, þegar Hún áleit þau ecki, sem skepnur af ødru kyni, og sýndi í ellu, ad Hún vildi þeim einka vel, mun hafa gjørt þad ad verkum, sem mesta ranssn og ríflegt kaup megnar ecki.

Allt framumeir andlátid, jafnvel midt í veikindum Sínum stjórnadi Hún innanhúß med sömu greind, alúd og nákvæmni, sem Henni var eginleg á þeim heilbrygdu degum æfinnar. Þetta er ecki lítill sómi hverri Húßmódur, hvørt sem hún er í háu eda lágu standi.

Eg hefir þeß getid, ad Hún hafi í dagfari Sínu verid einhver hin fullkomnasta manneskja — og — ad Hún hafi heldur viljad vera

enn sýnast góð. Dygð og fullkomnan manna er bygð á ýmislegum grundvelli, eptir sem lund og uppfóstur er misjafnt; sumir hafa af náttúrunni þegið blída lund, og hún gengur þá fyri dygð einatt. Það er ecki svo auðgjört að þeckja það góða, sem hún kémur til vegar í manneskjunnar fari, frá því, er skynsemin kénnir henni að gjöra, eða hún nemur af Guðs orði. Aðrir eru góðir af vana og uppfóstri, og nockrir af skynsamlegri umhugsun þeß, er skyldan býður; það er að skilja: eitt af þeßu þrennu á meiri þátt í því góða hjá manneskjunni í hennar siðferði, heldur enn hitt hvert um sig, því allt þetta leggur sitt til að laga sérhverja manneskju, er nær nockurri töluverðri fullkomnun. Skynsamleg umhugsan skyldunnar verður að gjöra þá góðu breytni, sem náttúrufarið fýsir til, jafnstöðuga og sjálfri sér samhljóða; náttúrufarið og vaninn gjörir allt tamara, lætur allt fara betur úr hendi. Að allt þetta hafi og sameinast hjá vorri Framlidnu, til að fullkomna Hana, vyrðist þreifanlegur sannleiki; svo var ráðvendni leyndt og ljóst Henni töm, að

 það

þad vyrdtist Hennar edli, en engin ment; svo var Hún jøfn og sjálfri sér lík ávalt, ad aud- sjed var, ad hún kom ecki af einstøkum gódum hræríngum, heldur var bygd á føstum lífsregl- um. Skynsamleg gudrækni var høfudstofninn allra Hennar dygda, alls þeß, er vel skartadi í Hennar framferdi; þeßvegna gaf Hún ecki mikid um dóma annara, Hún hafr Sína breyt- ni undir Guds og samvitskunnar dóm, og á- nægd med hennar vitnisburd og þad lof, er kémur frá Gudi, leitadi Hún aldrei lofdyrdar af mønnum.

Umgengni vid mannefkjur var Hún vid- mótsgód og einæg; blída Hennar var ecki án alvørugéfni, og einardleiki aldrei án stillingar; sagdi Hún ætíd meiníngu Sína med djørfúng reidilaust, hvørt sem í hlut átti; hér gjørdi Hún sér ecki mannamun, því Hún var jafn- fjarlæg ad hræsna, sem frá því, ad audmýkja adra lægri med Sínum yfirburdum.

Enginn leitadi ráda til Hennar forgéfins — annars var Hún bædi fáskiptin og fámálug — heilrædi hafdi Hún bædi greind til ad géfa, og

ein-

einurd til ad segja. Hún hafdi og góda greind á læknìngum, leitudu margir líknar til Hennar bædi vid inn- og út-vortis meinsemdum; og þared Hún var eins varhygdarsöm og greind í Sinum rádleggíngum, samþycktu Landlæknar hér ecki sjaldan Hennar akferd og tillögur, sem fleirstum urdu til bóta.

Hreinskilni og stakleg trygd, vóru Henni einka kjærar og tamar dygdir, eins og allt Hennar ráðlag var stadfast og einlægt. Vid þurfamenn og áuma var Hún einka gódsöm. Þad sem sumir brúka til ad gèfa þeim, er ecki þurfa, því útbýtti Hún til voladra; hvörr gètur sagt, hve miklu? Hún kalladi ecki votta ad þar, sem Hún í ordi eda í verki líknadi naudstöddum.

Hvörr sem samanber þessa ófullkomnu en sönnu lýsíngu vorrar Framlidnu, vid Kristinndómsins hæstd bodord, hann mun med mér játa, ad skynsamleg gudrækni hafi verid Hennar dygd og stólpi allra annara; gudrækni sýndi sig í allri Hennar breytni, og stjórnadist af viti — og — þad er ecki furda, þótt ávextirnir væru miklir, þegar stofninn var svo gódur.

Þvís

Þvílík manneſkja er hér úr gardi gengin, vart 74ra ára; ſøknudur er ad Henni, þótt Hún væri komin til ára, og þótt lífid væri farid ad beiſkjaſt Henni, vegna lángvinnra veikinda; ad mørgum ô Hún ſaknadar-tár, þótt umſkiptin ſéu Henni ábati. Naudſtaddir miſtu gódſama Módur — Hjú beſtu Húſmódur — Tengda- og ætt-fólk mikla velgjerda Módur — Hennar eini Sonur miſti þá ánægju, er hann vænti ſér af þeirri yndælu ſkyldu, ad ſykra Henni qvøldtíma æfinnar med ſonarlegri elſkuſemi og umhyggju; Henni, er hann átti ſvo margt gott upp ad unna, og þarámedal dýrann arf yppar-legra mannkoſta. En — hvad miſti ſá háæru-verdi **Aulldóngur**, ſem hér ſtendur vid ûtför ſinnar þridju Konu? **Hún** var yndi mins lífs, ſómi og lucka! þeßi er hans játníng. Á þeßum ſama árſins degi ſtód hann, ſem Brúdgumi, fyrir 30 árum, vid þeirrar ſømu hlid, yfir hverrar líki hann nú ſtendur. Sú ſama Forſjón, ſem gaf Hana þá, tók Hana aptur nú. Mißirinn er mikill og ſorglegur; hverr tekur ecki innileguſtu hlutdeild í honum,

med

med þeim verduga og margreynda **mikla Manni**, er nærst var hæggvid? ecki bannar hugprýdin tár, þar þvilíkt ber til; ecki fyribýdur vor trú oß ad tárfella vid ástvina mißir; en hún vill ecki ad vèr syrgjum eins og þeir, sem enga von hafa. Vor gledi má ecki vera frek, vor sorg á líka ad vera stillt. Tíminn lækni hjartans sár, og sorgin snúist upp í vinsámlega tilhugsun. Forsjónin hryggir ecki æfinlega, ástvin sendir hún í ástvinar stad á stundum, og von um fundi ástvina í sælla heimi hefir hún ællum gèfid; þetta er adalhuggunin. Ástvinir vorir eru um stund frá oß fluttir, vèr finnum þá aptur í vors Fødurs húsi, þvi fyrr, ad líkindum, sem vor vegferd er ordin lengri, þeirra mæda er úti, þeir búa í fridi á róseminnar landi í sambúd rèttlátra; lifum, til þeß fundum ber saman, í von og trú! heidrum þeirra dygdir og endurminníngu! hugsum um þad lofsverda í þeirra dagfari, og gaungum í þeirra fótspor! þá verdur þeirra endurminning oß gagnleg, dýrmæt, heilög. Þeß fleiri ástvini, sem daudinn tekur frá oß, þvi innilegar skulum vèr áhánga

þeim,

þeim, sem eptir eru, og þegar vinir fœcka á jördunni, svo sé vor umgengni hjá Gudi á himnum og hjá dygdinni. Medan vér erum á vegferd vorri gegnum lífid, svo látum hugann stíga þángad, hvadan ætt vor er komin; þar er allt stadfast og varanlegt. Med þessum gudrækilegu þaunkum heidrum vér og Minníngu og Utfarar-hátid þeirrar miklu Merkis-konu, sem var gudrækin af rót. Hennar endurminníng skal ecki fyrnást oss, Hennar dæmi vera oss dýrmætt. Líkaminn leggst til sinnar hvíldar í jardarinnar skaut, andinn er hjá Gudi, sem gaf hann. Gefi oss Gud ad deya dauda ens Réttláta! Amen.

---

RAF-

# GRAFSKRIFT.

  

Bid. mitt. Land.
Ad. þínir. nidjar. fakni ekki.
Fyrri. tídanna.
Ad. þínir. gömlu. menn. féu. einardir;
Og. þín. úngmenni. ekki. qveifar.
Uppal. konur. eins. og. hana.
Sem. æruverdur. maki.
Einn. ſá. fremſti. medal. þinna. auldúnga;
Og. fonur.
— Fullordinn. í. hennar. gédſtillíngu;
Og. gudhrædslu; —
Trega.
Ad. hún. ellimód. fékk. betri. ſamaſtad;
Hér. tók. alldanna. fadir.
Eina. þína húſsmódur.
Hverja. enginn. þekkti. ſem. ekki. þekkti;
Fyrir. af-bragd. ad. atgjörvi.
Rád-deild. gédſtilli. faſtlyndi. ættrækni.
Skörúngſkap.
Gudhrædd. rádvönd.

Eins;

Eins. og. einhvör. befta. ftúlkan.
I. vorblómá. kriftninnar.
Þad. holdlega. breytift, og. hverfur;
Því. var. nafnid. grafid. hér. á.
ÞURIDUR. ASMUNDSDOTTIR.
Fædd. vi. Augúfti. MDCCXLIII.
Gift. fyrft. Syslumanni. *Borgarfjardar.*
*JONI. EGGERTSSYNI.*
xx. Octobr. MDCCLXXIV.
Sidar. gift. Stiptprófafti. *Skálholts*-ftiptis.
*MARCUSI. MAGNUSSYNI.*
xiv. Júnii. MDCCLXXXVII.
Dó. þann. iv. Júnii. MDCCCXVII.
Var. greftrud. þann. xiv. fama. mánadar.
Hana. lifdi. eitt. barn.
*Lector.* vid. *Bessaftada.* Látinu-Skóla.
*JON. JONSSON.*

Uppfett af
Isl. Einarssyni.



